


III. Winnipeg, Man. Nr. 9.

# RÆÐA.

Eftir Mrs. J. E. Peterson.*

1. Jóh., 3, 2.: Elskulegir, nú þegar erum vér guðs börn, en það er enn ekki opinbert hvað vér verða munum.

Á síðari helmingi aldar þeirrar, sem nú er að líða, hefir orðið mjög mikil breyting á skoðunum manna um uppruna og framtíð mannkynsins. Að vísu trúa sumir enn hinni gömlu sögu um syndaflóðið og gjörspilling mannanna, en varla eru það aðrir en hinir allra fáfróðustu og hjátrúarfylstu. Hinir, sem upplýstari eru, hafa algerlega kastað þessari trú, en þess ber vel að gæta, að með því fellur grundvöllurinn, sem gamla byggingin, rétttrúnaðurinn, hefir verið reist á, og veldur það mönnum oftlega mikillar órósemi. En svo framarlega, sem neisti nokkur frá hinum guðdómlega loga sannleikans hafi náð að brjótast inn í heila mannsins, þá væri það þýðingarlaust, að fara að ausa yfir hann öllu hinu vígða vatni heimsins. Það gæti ekki slökt hann, og hvernig sem klerkar þruma úr prédikunarstólum sínum, þá geta þeir ekki eytt honum, þessum neista, því að hann er áreiðanlega viss að kveykja eld þann, sem loga mun bjartara og bjartara þangað til þjóðsögur og hugmyndir frá bernskutímum þjóðanna, fela sig í myrkrinu og hylja sig í hjátrúarmekki

*) Ræða þessi, eftir merkis og gáfukonuna Mrs. Peterson, ekkju Björns heitins Péturssonar, var flutt í unitarakyrkjunni í Winnipeg 22. Sept. þ. á., af séra M. J. Skaptasyni.

umliðinná tíma, en aðrar nýrri, fegurri og bjartari hugmyndir koma í þeirra stað. Þá hljóta gömlu kyrkjufélögin að taka sig upp og flytja á þennan nýja grundvöll, eða að öðrum kosti, að hrynja algerlega um koll og verða minnisvarðar hjátrúar og vanþekkingar. Það er enginn efi á því, að kyrkjufélögin taka framförum með tímanum, en nú sem stendur er mest veinað yfir efanum í trúmálum, yfir því, að gamla barnatrúin sé að deyja út, yfir þessari vantrú, sem alt ætlar að gleypa.

Nú skulum vér hugleiða þetta, sem efað er, og sjá hvað það er, sjá hverju menn eru að kasta, sjá hvað eftir verði til þess að byggja á sannari trú og fyllri framtíðarvonir. En til þess að skilja í því þurfum vér að líta aftur um 3. eða 4. hundrað ára tíma, og sjá ástand heimsins eins og það var þá og hver stig þau hafa verið, sem leitt hafa til þess.

Árið sem leið var mikið talað um Columbus og tímann á undan honum; en hvað var það þá, sem menn þektu á dögum Columbusar? Menn þektu nokkurnvegin suður og miðhlutann af Evrópu, nokkurn hluta af vesturparti Asíu og af norðurhluta Afríku. Það var alt sem menn þektu af heiminum. Menn höfðu einhverja óljósa hugmynd um ríki austur í álfu, en hvort það var land eða eyjar, vissu menn ekkert um. Menn héldu þá að jörðin væri flöt skífa og lægi sjór umhverfis hana. Þeir sem þá voru mentaðastir vissu ekki betur og áttu oft marga harða rimmu út úr þessu. Þá var jörðin skoðuð sem miðpunktur alheimsins. Einstöku skarpvitrir menn höfðu ætlað, að jörðin væri hnöttótt, en kyrkjan hótaði þeim báli og brandi. Þeir Luther og Calvin höfðu ekki hærri hugmynd um heiminn en þetta, og trú sú er þeir boðuðu, var löguð eftir þessum heimi. Stjörnu- og heimspekingurinn Copernicus var uppi á sama tíma, og var hann að reyna að koma viti fyrir menn og segja þeim, að það væri misskilningur, að jörðin væri miðpunktur heimsins. Hún væri ekki miðpunktur sólkerfisins, heldur gengi hún í kring um sólina. En þeir vildu ekki heyra það, og Luther kallaði Copernicus "stjörnufræðisbullara." "Þessi asni," sagði Luther, "ætlar að umhverfa allri stjörnufræði, en ritningin segir oss, að Jósúa hafi boðið sólinni að standa kyrri." Allir foringjar siðbótarinnar tóku í sama strenginn og lifðu svo og dóu, að þeir héldu að heimurinn væri ekki stærri en þetta. En svo sigldi Columbus yfir hafið og fann nýja álfu. Þá sigldi og Magellan suður um suðurodda Ameríku og yfir Kyrrahafið og svo í kring um hnöttinn, og fóru menn þá loks að trúa því, að jörðin væri hnöttótt. Þá kom Galilei með stjörnukíkir sinn og sann-

aði það, að í stað þess að vera miðpunktur sólkerfisins, væri jörðin einhver minsta jarðstjarnan, er gengi í kring um sólina, og það sem meira var, að sólkerfi okkar væri eitt af hinum ótölulega grúa sólnakerfa, er fylla rúmið eður geyminn.

Allar þessar nýju hugmyndir voru byltingahugmyndir. Þær voru andstæðar kenningum kyrkjunnar og ritningarinnar og þess vegna mótmæltu menn þeim, sögðu það vera trúleysi, eyðileggjandi hina kristnu trú og sáluhjálparvon manna. Vér sjáum því, að ópið: "trúleysingi" og "guðníðingur" er ekki nýtt, og eins hitt, að mannkynið var fyrir hundruðum ára farið að feta uppávið, upp þennan efasemdanna stiga. Þegar nær dregur tíma vorum, sjáum vér, að jarðfræðin hefir gefið oss aðra opinberunina um þessa litlu stjörnu vora. Kyrkjan og ritningin hafði kent oss, að jörðin hefði sköpuð verið fyrir 6000 árum, og að þá hefðu allar lifandi verur, að manninum meðtöldum, verið skapaðar á einum 6 dögum. En jarðfræðin segir oss og sannar, að þetta sé bull eitt. Það séu skáldlegar hugmyndir frá bernsku mannkynsins. Jarðfræðin sannar oss það, að milliónir ára hljóta að hafa liðið, síðan þessi litli hnöttur vor fyrst hóf göngu sína um sól, með öðrum hnöttum sólkerfisins, að lífið var á jörðunni í ótölulegum myndum, í milliónatali, áður en maðurinn kom á hana.

Þá var það gamla kenningin, að maðurinn í fyrstu hafi verið skapaður fullkominn, en þó svo, að hann féll og syndgaði og síðan hafi bölvun skaparans legið á honum. En hin nýrri vísindi segja, að í stað þess að vera skapaður fullkominn, hafi maðurinn allar þessar aldir verið hægt og hægt að feta sig upp á við frá villumönnunum, sem bjuggu i holum og hellrum og átu hver annan, alt til timburmannssonarins frá Nasareth, sem tilbað hinn himneska föður í anda og sannleika, og dó með þá bæn á vörunum, að þessi faðir fyrirgæfi þeim, sem kvöldu hann og deyddu.

En hvernig vita vísindamennirnir alt þett? kunna menn að spyrja. Þeir lesa það á klettunum, á steindum líkum dýra og manna í jörðu niðri; og vér vitum, að þessir steinar geta ekki logið. En saga sú, sem þeir segja oss, er öfug við söguna um aldingarðinn Eden, og sú hin gamla sagan, með hinn fullkomna mann, er nú orðin að þjóðsögu. En einlægt heyrist ópið: "vantrú, vantrú!" úr öllum áttum frá hinum fáfróða lýð.

Afleiðingin af uppgötvunum þessum hefir nú orðið sú, að heimurinn er farinn að breyta skoðunum sínum um þessa hina gömlu, einu, fullkomnu opinberun guðs,—ritninguna. Svo framarlega sem

þetta væri satt, sem jarðfræðin og vísindin sögðu, þá gat ritningin ómögulega öll verið sönn, hún gat ekki verið fullkomin opinberun guðs. Og nú eru þeir, sem sannleikans leita, alveg hættir að óttast ópið, að þeir séu vantrúarmenn og trúníðingar. Bæði innan vébanda kyrkjunnar, sem utan, eru menn óhræddir farnir að láta sannfæring sína í ljósi, og fyrst þá, þegar það er alment orðið, geta menn verið fullvissir um framhaldandi þroskun mannkynsins.

En það er og annað, sem nú á seinni tímum hefir hreyft hugi manna. En það er það, að menn eru farnir að taka eftir öðrum trúbrögðum eldri en kristni, og bera þau saman við kristnina, og sjá menn þá, að hvergi í heiminum hefir guð látið sig án vitnisburðar. Og þegar vér rekjum uppruna og eðli þessara trúbragða, þá sjáum vér, að það er ekki í Gyðingalandi einu, heldur alstaðar í heiminum sem trúbrögðin hafa þroskast, eins og mannkynið; en alt þetta telja trúmennirnir trúarvillu og vantrú. En þetta hlaut að vera þannig eftir því sem mentunin óx. Og það sýnir e k k i, að mennirnir séu að falla í vantrú, heldur hitt, að þeir eru að verða v i t r a r i. Menn eru farnir að vita meira en þeir vissu áður. Þeir voru lengi börn að andlegum þroska, en nú eru þeir að vaxa frá því. Þeir eru farnir að læra að lesa betur það, sem guð sjálfur hefir skrifað á klettana og allstaðar í bók náttúrunnar.

Afleiðing þessarar þekkingar er sú, að ýmsar gamlar hugmyndir hafa gengið í gröf sína. Hugmyndin um að jörðin væri flöt, er nú dysjuð fyrir löngu, en í þess stað hafa menn fengið, ekki eintóma hugmynd, heldur vitneskju um meiri og fegurri og tígulegri heim, og höfum vér vissulega enga ástæðu til þess, að harma yfir því. Allur þorri hinna svokölluðu vísindamanna og heilir hópar af lærðum og leikum, eru nú búnir að grafa biblíuna sem guðdómlega innblásna bók, menn geta ekki viðurkent hana sem algilda reglu fyrir siðgæði manna; en í stað hennar höfum vér fengið hina miklu bók náttúrunnar, með miklu dásamlegri opinberun, og með hinni vaxandi þekkingn og skynsemi manna, getum vér æ betur og betur þýtt og lesið þessa opinberun. Þessi hin nýja biblía er ritning, sem þroskast, sem hefir verið að þroskast síðan jörðin fyrst fór að skapast, og mun halda áfram að þroskast eftir því, sem ár og aldir líða og einlægt lærum vér betur og betur að lesa þessa undarlegu bók. Vér höfum gömlu biblíuna enn, en að eins sem bókmentasögu og þroskunarsögu Gyðinga og trúar þeirra; í henni lesum vér háfleyg orð spámanna þeirra og lífssögu manns þess, sem verða mun fyrirmynd heimsins um aldur og æfi.

Vér höfum kastað trúnni á syndafallið, á gjörspilling manna, á hið logandi víti, þar sem sálir syndaranna áttu að brenna um alla eilífð án þess nokkur dropi vatns væri til þess að kæla tungu þeirra. En í stað þessarar voðakenningar höfum vér orðið þess vísari, að frá því sköpunin byrjaði hefir lífið, vitið, trúin, mannkynið verið að stíga af einni tröppunni á aðra, og einlægt af lægri á hærri tröppu. Í stað þess að falla, hefir maðurinn einlægt verið að hefja sig upp, þangað til hann loks finnur það, að hann er barn föðursins á himnum, þó að það sé enn þá ekki opinbert, hvað hann verða muni. Er það ekki miklu betra, er það ekki fagnaðarboðskapur sem boðast ætti öllum þjóðum? Gamla hræðan um helvíti, er bábilja ein.

Stundum kemur það fyrir, að menn brígsla oss um það, að þessar nýju kenningar útiloki hugmyndina um guð, að hann hafi þá ekkert að gera framar, Þær útiloka hugmyndina um hinn grimma, heiftuga Gyðinga-guð, það er hverju orði sannara, — um guð þann, sem kvelur börnin sín í eilífum vítisloga. En það ætti þó að vera sannarlegt fagnaðarefni fyrir heim allan, að geta kastað þessari hugmynd, og vitað fyrir víst, að hún er ósönn. Vér ættum allir að gleðjast við það, eins og maður gleðst, er hann vaknar af vondum draumi. En er það þá svo að vér séum búnir að tapa guði? Ef að menn skilja guð svo, að hann sé í mannslíki og sitji einhverstaðar í hæðum himnanna í hásæti sínu, þá getum vér sagt, að sú hugmynd sé dauð, sá guð genginn í gröf sína. En sá guð, sem vér höfum fundið, er miklu veglegri, meiri og dýrðlegri, en þessi gamla hugmynd, meiri en svo að honum verði lýst. Jesús Kristur lýsti honum best, er hann sagði: "Guð er andi, og þeir sem tilbiðja hann, eiga að tilbiðja hann í anda og sannleika." Hann er andinn í alheiminum, og eins og andi mannsins, sem er að eins neisti af guðs anda, opinberar sig eða veldur hreifingum hvers einasta vöðva í líkama mannsins, eins opinberar guðs andi sig í hverri smáögn alheimsins. Hann er lífið, aflið, hugsunin, ást'in, hjartað í öllum hinum víða heimi. Aldrei áður fyrri höfum vér haft eins ástæðu til þess að segja: "Ég trúi á guð," sem einmitt nú, því að nú erum vér fyrst farnir að þekkja heim, sem er verður þess og samboðinn því, að vera bústaður hins eilífa anda; nú er það fyrst, en ekki fyrri, að vér erum farnir að hafa hugmynd um guð, sem er þess verður, að búa í þessum nýja alheimi.

Enn er oss brígslað um það, að með því að bylta öllu þessu góða, gamla um koll, þá höfum vér eyðilagt trúna á Jesúm Krist. Það er víst, að vér höfum kastað trúnni á guðinn Krist, sem full var

af ókleifum mótsögnum og ómögulcikum. Vér trúum ekki að hann hafi tekið á sig syndabyrði allra manna til þess að bera þær upp á krossinn og kvitta fyrir þær. En aftur höfum vér í Jesú Kristi fundið bróður, og vin, mann, sem reyndar var ekki fullkominn, ekki svo að ómögulegt sé að setja út á kenningar hans og líf, en þó mann, sem var svo langt á undan tíma sínam, á undan okkar tíma, að hann getur verið oss huggari, fræðari, vinur, fyrirmynd og leiðtogi. Hann hefir sýnt oss með dæmi sínu, hvað hátt góður maður getur komist, hann hefir sýnt oss, að maðurinn getur tilbeðið guð í anda og sannleika og lifað samkvæmt því, svo að menn geta sagt eins og Kristur: "Ég og faðirinn erum eitt." Vér höfum því ekki forkastað Kristi, heldur höfum vér fært hann niður af stalli þeim, sem skurðgoðadýrkendur hafa sett hann á, og búið honum bústað í hjörtum vorum, sem einum af hinum mörgu píslarvottum sannleikans.

Þegar vér lítum yfir þetta, þá sjáum vér hvergi ástæðu til þess, að syrgja það, er vér höfum felt í burtu, heldur miklu fremur að gleðjast. Vonin um hina góðu komandi tíma er nú svo rík í hjörtum vorum, að vér sjáum, að vér erum rétt að byrja lífið; það blasir móti oss með öllum sínum óendanlegu möguleikum.

Alt fyrir þetta megum vér þó ekki láta augun aftur svo að vér sjáum ekki það sem er. Vér köllum oss mentaða, en alt í kring um oss eru þó menn og konur, sem eru lítið æðri en dýrin. Í þessari stöðugu framsóknarbaráttu heimsins, baráttu mannkynsins að komast á æðra andlegt stig, hafa gáfurnar, heilinn, hæfileikarnir tekið miklum þroska. En gáfur einar bera ekki vott um, að maðurinn standi á háu andlegu stigi. Vér getum hugsað oss mann með miklum hæfileikum, kænan og djarfan, en ef að hann þá um leið er dýrslegur, munaðargjarn, lostafullur, eigingjarn svo að hann elskar sjálfan sig meira en nokkuð annað, þá er hann í rauninni ekkert annað en stórt dýr, skaðlegt og hættulegt. Ef að vitinu eður gáfunum ekki fylgir kærleiki til mannanna, til hins fagra og góða, þá getur það ekki lyft manninum upp á æðra andlegt stig, það getur að eins gert hann að stóru hættulegu dýri, en ekki meira.

Þessi þroskun heilans, sem stundum er svo vanbrúkuð, er þó í rauninni hið fyrsta stig til mentunar mannsins. Hið annað stig til þess að menta hann, er það, að finna í hjarta sínu hreina sjálfselskulausa ást til annara manna, ást sem komi í ljós í því, að auðsýna öllum réttlæti og sanngirni. Þessi ást þarf að ná út fyrir familíuna, út fyrir vinahópinn, út fyrir þorp það eða borg eða land, sem menn

byggja; menn þurfa að finna í hjarta sínu löngun til þess, að verða öllu mannkyninu til blessunar.

Í þessu tilliti hefir heimurinn óneitanlega tekið miklum framförum. Það eru til bæði menn og konur, sem gnæfa hátt yfir þorra mannkynsins, sem hafa eins og drukkið í sig neista hins guðdómlega kærleika. Og hjá þeim sjáum vér fyrirmynd fullkomnunar mannsins; þeir eða þær sverja sig í ætt við hina guðdómlegu sál. En enn þá er allur þorri manna lítt þroskaður í þessa stefnu, eða ekki nema að nokkru leyti. Vér þurfum því að losna við ástina á sjálfum oss, losna við eigingirnina og ná öðru æðra stigi. Vér þurfum að læra hina fullu þýðingu orðsins: kærleikur. Vér þurfum að læra að beita kærleikanum í lífinu, læra að virða réttindi annara, farsæld þeirra og vellíðan. Meðan vér hugsum að eins um sjálfa oss og vinnum að eins fyrir sjálfa oss, þá erum vér á sama stigi og dýrin. Vér búumst ekki við öðru af dýrunum, en að þau hugsi um sig, elski sig sjálf meira en alt annað, þau hafa fæst at þeim komist hærra, nema í einstöku tilfellum. En maðurinn stendur í rauninni ekki hærra siðferðislega, meðan hann stjórnar ekki fýsnum sínum, girndum sínum, meðan hann hefir ekki fullkomið vald yfir sjálfum sér. Hann þarf að læra það, að breyta svo við aðra, sem hann vildi að aðrir breyttu við sig. Hann verður fyrst fyllilega þroskaður maður, þegar hann forðast það, að meiða eða særa aðra, að pretta aðra, skaða aðra, af því að hann finnur, að hann vildi ekki að aðrir breyttu þannig við sig. Þessir og aðrir eins menn hafa verið til, bæði karlar og konur og þeir sýna oss, hvað vér sjálfir getum verið, ef að viljinn er sterkur og einlægur.

Enn er eitt stig mannsins til siðferðislegrar fullkomnunar. Það er að kasta frá sér áhyggjum og búksorg, að meta lítils glauminn og stríðið og baráttuna, heiminn, en keppa eftir hinu andlega, eftir samfélaginu við hinn guðdómlega anda. Þetta er ekki draumur einn, heldur sannur veruleiki. Vér getum ekki öðlast þennan innri frið hjartans með því, að taka oss út úr baráttunni og glauminum, með því að ganga í klaustur eða setjast að á eyðimörkum. Það er hið innra í sjálfum oss, sem vér verðum að öðlast þennan frið, þessa ró og kyrð samviskunnar, meðvitundina um, að vér vinnum mannkyninu til góðs, félagi því sem vér lifum í til góðs, guðsríki til eflingar, meðvitundina um, að vér séum eftir vorum veiku kröftum samverkamenn guðs að bæta mannkynið og gera það farsælla. Þessi meðvitund veitir oss innri frið og ánægju, gerir oss glaða og vonarfulla í þrautum og þjáningum, hún léttir á oss heimilisáhyggjum og gerir

það, að vér verðum léttari, glaðari, færari að mæta lífinu og þrautum þess í öllum mögulegum myndum.

Sem dæmi og fyrirmynd höfum vér hina mestu ágætismenn heimsins. Og fyrir þessa menn hefir dauðinn enga ógnun í för með sér, hann er velkominn gestur hvenær sem hann kemur. Hann er eins og sendiboði að sækja þá og flytja úr gömlum hýbýlum í önnur ný, og í þessum nýju bústöðum hinummegin heldur maðurinn einlægt áfram að fullkomnast stig af stigi, tröppu af tröppu.

Vér þökkum þér, elskulegi faðir, fyrir þennan möguleika til fullkomnunar mannlegrar sálar. Hjálpa þú oss til þess, að halda einlægt áfram og upp á við, að líta ekki aftur, en horfa einlægt fram, að keppa eftir samfélagi við þig, að öðlast einlægt meira og meira af þínum guðdómlega anda.



# MÓTSAGNIR BIBLÍUNNAR.

Þeir eru sumir til enn þá, sem ekki mega heyra það, að til séu mótsagnir í biblíunni. Hugsun þeirra er að nokkru leyti rétt, því þeir finna það, að guðdómlegt orð hlýtur æfinlega að segja satt, í því getur engin mótsögn verið, því að þá væri það ekki sannleikanum samkvæmt. En þetta, að segja, að í biblíunni séu engar mótsagnir, það segja menn annaðhvort fyrir þá sök, að menn þekkja ekki innihald hennar nægilega, eða af einhverjum enn verri ástæðum. Því það má sýna fram á þann ógna fjölda af mótsögnum í henni, að hverjum sem nokkuð gætir að þeim, getur ekki komið til hugar, að trúa því, að hún sé guðdómlega innblásin bók, því að þessar mótsagnir sýna það og sanna, að hún getur ekki verið það, getur ómögulega verið guðdómlegt rit. Það er harla undarlegt, að menn skuli ekki almennara en verið hefir, hafa tekið eftir þessu. Það er eins og menn hafi látið teyma sig blinda á báðum augum, eða þá að menn virði að vettugi allan sannleika, og skirrist ekki við að telja það heilagan, guðdómlegan sannleika, sem annaðhvort er bull og endileysa, eða er sannleikanum alveg mótstríðandi.

Til þess að sýna það, að þetta er ekki tekið úr lausu lofti, skulum vér hér koma með nokkur dæmi úr ritningunni, og þegar þau eru komin öll, mun einhverjum finnast nóg um þá fjársjóðu í þessari bók, sem þeir hafa alt til þessa bygt á sáluhjálp sína.

Jóh. 4., 24. segir, að guð sé andi ólíkamlegur, og hefir hann þá

engan líkama eður limi. En í 2. Mós., 33., 20.—23., er guð sjálfur að tala við Móses og segir, að hann megi ekki sjá auglit sitt, og segist svo skuli "byrgja hann með hendi sinni," en þegar hann sé kominn fram hjá, megi Móses sjá á bak honum. Þarna er guð látinn tala, en til þess þarf líkamleg málfæri, hann hefir hendi, hann hefir auglit, hann hefir bak, en það vita menn ekki til að ólíkamlegir andar hafi. Í Orðskv. Salom., 15, 3, er sagt að guð hafi augu og séu þau alstaðar; hjá Esaias hefir hann munn, hendur, armlegg, eyru, varir og tungu; hjá Jeremias hefir guð hönd og arm; hjá Esekiel er guð í mynd manns, hefir mitti eður lendar og lýsir af myndinni. Móses segir hann hafi hjarta og lætur hann draga anda. Jeremias segir að hann hafi nasir, og Daniel segir hann hafi hár.

Þegar vér nú búum oss til mynd eftir lýsingu þessari, sem tekin er úr guðs óskeikanlega innblásna orði, þá sjáum vér fyrir oss persónu með höfði og augum, eyrum, nösum, munni og tungu vörum og hári á höfði með augliti eður andliti, sem aðrir menn, baki eður hrygg, lendum og mitti, handleggjum og höndum og með fingrum, með hjarta, lungum og öðrum líffærum, og með fótum sem aðrir menn. Og þegar vér svo lítum til þess, er guð glímdi við Jakob forðum, að hann kom á fund Abrahams og át með honum og drakk, þá höfum vér fengið hugmynd um Gyðingaguðinn. Vér sjáum þá að Gyðingar hafa hugsað sér guð sem mann, og er þá ekki að furða, þótt þeir létu hann hafa mannlega hæfileika, mannlega breiskleika, létu hann vera ýmist kátan og glaðan, eða hryggan og sorgbitinn, létu hann reiðast og iðrast, létu hann sitja í hásæti á himnum uppi, létu hann koma og fara hingað og þangað, létu hann eignast son við konu einni, og létu hann svo lifa á jörðunni sem mann, líða og þjást og loksins deyja sem mann, þó að þeir við nákvæmari hugsun hefðu hlotið að sjá það, að guði var með öllu ómögulegt að deyja.

Af þessari lýsingu ritningarinnar á guði stafar og það, að á myndum frá tímum miðaldanna er guð málaður sem gamall æruverður öldungur, með síðu, hvítu skeggi. Og enn má oss víst reka minni til þess, að á barnsaldrinum og lengi frameftir, þegar vér hugsuðum oss guð, þegar vér báðum til guðs, þá hugsuðum vér oss hann, ég held undantekningarlaust, sem mann.

Þessi lýsing ritningarinnar á guði getur ómögulega komið saman við þá hugmynd, að guð sé ólíkamlegur andi. Því að líkamalaus andi getur ekki haft líkama. Það eru fábjánar einir sem geta sagt slíkt í fullri meiningu.

Það lærdómsríka í þessu er það, að guðsmyndin hefir verið að þroskast, hún hefir verið ófullkomnari á dögum gömlu Gyðinganna, en hún er orðin þegar á dögum Jóhannesar, og enn er hún orðin fullkomnari á vorum eigin dögum, því að nú eru prestar fallnir frá þessari líkamlegu hugmynd, en til þess að reyna að hanga á ritningunni og verja bókstaflegt gildi hennar, segja þeir, að þessi nöfn á vissum líkamspörtum guðs séu "symbolisk," og eigi að tákna eiginleika hans; en þeir gæta þá eigi þess, að með því að segja þetta neita þeir bókstaflegu gildi biblíunnar.

Um allar aldir hefir hver þjóð búið sér til sína eigin hugmynd um guð, og hugmyndirnar hafa æfinlega verið eftir því andlega þroskastigi, sem þjóðirnar hafa verið á. Öðruvísi hefir guð aldrei opinberað sig fyrir mönnunum.

Í Efesusbréfinu sjáum vér, að guð á að vera allstaðar nálægur "yfir öllu, um alt og í öllu"; en í Habakuk, sem uppi var löngu fyrri "kom hann frá Teman, frá Paramsfjalli." Þarna er mótsögn, því að ef að guð var allstaðar nálægur, þá þurfti hann hvergi að koma að. Í 2. bók Mós., er guð látinn stíga ofan á fjallið Sinai; í 4. bók Mós. kom guð ofan í skýinu og seinna í sömu bók, kom drottinn niður í skýstólpanum og gekk í dyr samkundutjaldsins og kallaði. Þetta, að guð þurfi að færa sig til á þá staði, þar sem hann ekki hefir verið áður, sannar ekki að hann sé "yfir öllu, um alt og í öllu" heldur hið mótsetta, og er þetta því stórkostleg mótsögn.



## GILDI GAMLATESTAMENTISINS.

(Athugasemdir við "Aldamót" 1893.)

Framh.

Þar næst minnist séra Friðrik á Jakob gamla. Það er ekki gott að eiga við hann, karlinn, ekki gott að neita því, að hann hafi verið brögðóttur og refjóttur að upplagi, enda játar séra Friðrik það; — hann er unitari þar. Hann viðurkennir að Jakob tæli bróður sinn. Vér unitarar erum séra Friðrik þar hjartanlega samdóma. En svo heldur séra Friðrik áfram og fer að verja glímu Jakobs við guð. Vörnin er reyndar nokkuð óljós; í fyrstu lítur svo út sem hann hafi ætlað að fara að sýna mönnum fram á, að Jakob hafi nú ekki glímt við guð sjálfan, en þetta hafi að eins verið líkingarfull dæmisaga. En þetta er þó heldur unitariskt, og því kemur það

aldrei beint fram hjá höf., heldur segir hann, að Jakob verði það smám saman meira og meira ljóst, að það muni vera drottinn sjálfur, og "að drottinn hafi snortið mjöðm hans." En ef að vér eigum að taka þetta sem dæmisögu,—og það gerum vér unitarar,—þá er bókstaflegum innblæstri um leið hrundið. Þetta hefir séra Friðrik séð, og samkvæmt skoðunum kyrkju sinnar hlaut hann að taka þetta sem sannan viðburð, er um leið ætti að tákna vanmátt mannkynsins að stríða á móti guði. En þessi tvöfeldni dugar ekki; það er ekki rétt að dylja menn þess, að þetta er eitt af þeim dæmum, sem sýna, hvaða hugmyndir Gyðingar höfðu um guð sinn, samskonar dæmi og þegar guð kom til Abrahams og át með honum og drakk, samskonar dæmi og þegar heilagur andi yfirskygði Maríu, og mörg fleiri. Gyðingar hugsuðu sér guð í mannsmynd, en fundu þó um leið, að sú hugmynd var ófullkomin, og því voru hinir vitrustu menn þeirra að reyna að koma inn hjá þeim trúnni á andlegan guð. Mönnum þarf því ekki að bregða í brún, þó að sumir Gyðingar trúi á líkamlegan guð, en sumir á andlegan guð. Það sýnir að eins þroskun guðshugmyndar þeirra. Þeir sem trúðu á andlegan guð, voru komnir langt á undan hinum, sem trúðu á líkamlegan guð. Trúin og guðshugmyndin hefir þroskast þannig hjá hverri einustu þjóð.

En það skrítna við þessa skýringu séra Fr. á glímunni er það, að fyrst er hann unitariskur, en svo fer hann, neðarlega á bls. 49., að halda því fram, að það sé ekkert undarlegra en aðrar opinberanir guðs, þó að hann færi þarna í áflog við Jakob! Vitanlega, ein líkamleg opinberun guðs er ekkert undarlegri en önnur. En hvað væri nú undarlegt við það, ef að vér hittum mann á förnum vegi, réðumst á hann, og ef að vér yrðum undir, þá þætti oss það minkun og til þess að draga úr ósigri vorum, segðum, að vér hefðum verið að glíma við guð sjálfan. Vér höfum alt að einu mikla ástæðu til þess, að segja, að hinn eða þessi, sem vér höfum flogist á við, hafi verið guð, eins og Jakob gamli, einkanlega hafi skuggsýnt verið. Hvað væri undarlegt við það, þó að klerkar, sem eiga andlega glímu við Ingersoll og æfinlega verða undir, segðu þá sér til málsbóta, að þeir hefðu verið að glíma við guð þar sem Ingersoll var? Þetta er alveg samskonar, eins og að láta Maríu segja það löngu eftir fæðingu Krists, að guð hafi verið faðir að honum.

Þegar séra Fr. segir, að Jakobs-glíman haldi áfram meðan heimurinn standi, þá er hann unitariskur. En þar sem hann í sömu andránni talar um guðlastanir vor unitara út af henni þessari glímu, þar kemur meira fram góður vilji hans en vit. Hann er oss sam-

dóma öðru veifinu. að þetta sé dæmisaga, og heldur því þó fram, að vér guðlöstum, er vér köllum það dæmisögu!

En svo rekur séra Friðrik sitt prestlega smiðshögg á þetta, er hann segir, að þessi glíma eigi að fyrirmynda grasgarðspísl Krists. Vér getum alveg eins sagt, að slagur þeirra Hrungnis og Þórs eigi að fyrirmynda grasgarðspísl Krists eins og þessi glíma. Það er ekki einn stafur í dæmisögunni, sem bendi á það, enda er séra Fr. sjálfur búinn að útskýra hana á alt annan hátt. Það má alt að einu segja einhverja vitleysu, t. d. að steinninn sé auga, hesturinn mús, séra Fr. refur, eins og að koma með þetta bull.

En nú kemur kórónan í öllum fyrirlestrinum! Ég ætlaði varla að trúa augum mínum þegar ég las það; ég fór að gæta að, hvort klerkurinn væri nú farinn að spauga. En ég færðist brátt úr skugga um það, að honum var rammasta alvara. Það er þetta: "Ef sagt hefði verið frá henni (næturbaráttunni) á *máli* hinna fyrstu manna, hve mundi ekki sú frásaga hafa orðið lík þeirri, er vér hér höfum fyrir oss?" Ég held að séra Fr. hafi hlotið að taka þennan fyrirlestur upp eftir einhvern ærðan guðfræðisbullara. Ég trúi ekki, að hann sé svo "blánkur" að ímynda sér annað eins og þetta sjálfur. Að segja frá glímu þessari á máli hinna fyrstu manna! Ætli það hafi verið hebreska eða enska eða íslenska? Hvernig skyldi málfræðin hafa verið hjá hinum fyrstu mönnum? Höfðu þeir föllin öll, nefnifall, þolfall, þágufall, eignarfall? Höfðu þeir allar hinar latnesku beygingar sagna, hluttekningarorð liðins og núlegs tíma? Eða kanske þeir hafi haft aoriston hinn gríska líka.

Að bera þetta fram, sem séra Friðrik gerir, bendir á, að hann skoði eða trúi, að maðurinn hafi verið fullkominn í fyrstu, þegar hann fyrst kom á jörðina. Til þess að tala fullkomlega gott mál, þarf maður að hafa málfræðislega þekkingu, og þá eiga forfeður vorir hinir fyrstu að hafa verið skapaðir með fullkominni málfræðisþekkingu! Þessari fullkomnu málfræðisþekking hlaut og að vera samfara fullkomin þekking í öllu öðru, enda kennir kyrkjan það. En þekkir séra Fr. ekkert til vísinda hinna nýrri tíma? Þekkir hann ekkert til "prehistoric Archæology" (fornfræði um tímann á undan sögutímanum?) Þekkir hann ekkert til "anthropology" (mannfræði)? Þekkir hann ekkert til "comparative Philology" (samanburðar málfræði)? Þekkir hann ekkert til þess, er málfræðingurinn Max Muller og fleiri hafa ritað um upphaf tungumálanna? Veit hann ekki, að Muller hefir rakið orðmyndir í einhverju hinu elsta tungumáli er menn þekkja,—sanskrít,—upp til nokkurra rótar-

orða, þannig, að öll orðin í málinu heimfærast til einna hundrað rótarorða, og því um leið sýnir það, að í málinu hafa á einum tíma ekki verið fleiri en hundrað orð? Veit hann ekki, að allir vísindamenn sem færastir eru að dæma um það, eru á einu máli um, að málin í fyrstu hafi að eins verið hljóð og bendingar, en svo hafi orðin smámsaman myndast fleiri og fleiri um marga tugi þúsunda ára. Mér liggur við að gefa upp alla yfirskoðun fyrirlestursins við þetta. Að fást við aðra eins dómadags vitleysu og þetta, er ekki gjörlegt.

Næst segir höf. fyrirlestursins, að "dæmi Jakobs sé eitt hið dásamlegasta af öllum hinum fögru dæmum gamlatestamentisins." En ef að vér segjum nú, að dæmi Þórs og Hrungnis sé eitt hið dásamlegasta í öllum hinum helgu bókum heimsins, væri það meiri fjarstæða en þetta? Eða ef vér segjum, að glíma Ingersolls við prestana sé hin dásamlegasta opinberun guðs, því að þar glími sannleikurinn við lygina, lygin verði undir þar sem prestar bera ætíð lægra hlut fyrir Ingersoll, eins og bragðarefurinn Jakob varð undir fyrir guði. Guð kemur fram sem persóna í mynd og líkingu Ingersolls og hrekur prestana, sem afbaka guðs orð?

Sem dæmisaga er sagan góð og vér getum lært af henni. En þegar hún er gerð að sögulegum viðburði, þegar guð þarf að láta augnakalla Jakobs ganga úr liði, til þess að fella hann, þá er það að niðurlægja guð. En oss skyldi nú ekki koma á óvart, þótt klerkur segði oss ljúga þetta altsaman, og segði að hann hefði aldrei skrifað þetta. En þarna stendur það svart á hvítu í fyrirlestrinum.

Þá kemur nú siðgæðis og kærleikshugmynd hinnar lútersku kyrkju og klerkanna í ljós, er þeir halda því fram, eins og hér er gert, að "eitt af því, sem beri allra sterkastan vott um guðlega andagift eða guðlegan innblástur, séu Davíðssálmar." Þetta er furðu djarflega sagt, og vér ætlum oss að fara sem fæstum orðum um það. Það er eins og vakað hafi í huga höf. hin gamla hugsan Rómverja, er þeir voru orðnir aðþrengdir mjög. Þá var það, að einn mikill maður þeirra sagði: "Una salus victis nullam sperare salutem." (Hin eina velferðarvon hinna sigruðu er sú, að vænta sér engrar velferðar). Það er ofdirfska þetta, að taka Davíðssálma og segja, að þéir séu hinn ljósasti vottur guðdómlegs innblásturs; en máske hefir það verið gert til þess, að menn skyldu því síður taka eftir því, að þeir eyðileggja allan guðdómlegan innblástur. En nú skulum vér skoða þenna guðdómlega innblástur Davíðs. Davíð gamli er að tala um óvini sína og svo hefur hann upp raustu sína og ákallar guð með brennandi bænarorðum í hinum 109. sálmi. Þau eru á þessa leið:

"Set þann óguðlega yfir hann (óvin Davíðs) og satan standi honum til hægri handar. Frá dómi gangi hann sekur og hans bæn verði að synd! Hans dagar verði fáir; annar fái hans embætti; hans börn verði föðurlaus og hans kona verði ekkja. Hans börn flakki um kring og leiti sinnar nauðþurftar, langt frá þeirra auðu bústöðum. Okurkarlinn nái í alt, sem hann á og útlendir ræni hans erfiði. Enginn sé sá, sem hafi elsku til hans og enginn aumkist yfir hans munaðarleysingja. Niðjar hans verði upprættir; í öðrum lið verði nafn þeirra afmáð. Hans feðra misgjörða skal minst verða fyrir drottni og syndir hans móður ei verða afmáðar. Þær skulu ætíð verða fyrir drottni. Hann iklæði sig bölvuninni, sem fati; hún renni inn í hans iður sem vatn, og í hans bein, sem viðsmjör. Hún verði honum sem fat, er hann íklæðist og sem belti, er hann ætíð umgyrði sig með. Þessi verði laun minna mótstöðumanna — — drottinn aðstoða þú mig, bjarga mér. — Og í 69. sálminum biður hann guð, að "úthella sinni bræði yfir þá, að láta þá bæta sekt á sekt og ekki komast til guðs réttlætis, að láta þá verða afmáða af lífsins bók og ekki tekna í tölu hinna ráðvöndu."

Ég held að ég nenni nú ekki að vera að taka til fleiri dæmi af þessum "allra sterkasta votti um guðlegan innblástur" en nóg er þó til af þeim. Þetta ætti að nægja til þess að gefa sýnishorn af guðdómshugmynd, kærleikshugmynd og réttlætishugmynd klerkanna.

Ég hefi stundum sagt, að ég tryði því varla að nokkur maður gæti verið svo djöfullega hatursfullur og heiftúðugur, að hann óskaði óvinum sínum eilífra kvala. En nú sé ég, að mér hefir skjátlast í þessu, því að þarna stendur Davíð innblásinn af guðs anda, talandi þau orð, sem guð sjálfur leggur á tungu hans, hugsandi þær hugsanir, sem guð sjálfur hugsar í sálu hans, þarna stendur hann bölvandi, ragnandi, ausandi hinni grimmustu heift og bræði yfir óvini sína, biðjandi guð á himni, að hefna sín á þeim, drepa þá, kvelja þá, hefna sín á börnunum saklausum, mæðrunum saklausum, á ekkjunum og munaðarleysingjunum, og ekki nóg með það að kvelja þá og pína að pressa af þeim tárin og veinin, nei lengra á hún að ná hegningin. Þeir eiga að strikast út úr lífsins bók, eilíflega eiga þeir að kveljast, aldrei, aldrei að eilífu mega þeir takast í tölu hinna ráðvöndu. Vér sjáum strax að þetta er maðurinn, sem hertók "borgir Ammonssona" og lét svo taka fangana, höggva þá með öxum, saga þá í sundur með sögum og herfa þá niður í jörðina með járnherfum. Hugsum oss, að vér komum þar að, sem hópur manna, nokkrar þúsundir karla kvenna og barna eru bundnar saman liggj-

andi á jörðunni, hljóðandi og veinandi, og biðjandi guð á himnum, að líkna sér og frelsa sig frá þessum ósköpum, sem þeir vita að fyrir sér liggi, mæðurnar sjá þegar í anda börnin sín slitin í sundur á göddum járnherfanna, því að þarna stendur heil fylking af uxum, sem draga járnherfi, er eiga að ganga yfir fólkið, yfir mennina, yfir konurnar, yfir börnin. Ég vil ekki fara fleirum orðum um þetta, það er svo voðalegt. En guð heyrir ekki bænir þeirra, því að hann hefir innblásið Davíð, að hann skyldi fara þannig með þá, eins og hann innblés honum orðin í 109. og 69. sálmi.

Þetta er nú hinn guðdómlegi innblástur, sem klerkarnir eru að verja, sem þeir eru að innræta söfnuðum sínum. Þetta er hin fylsta hugmynd þeirra um réttlæti og kærleika! Á þennan hátt eigum vér að búa saman hver við annan! Þessum hugsunarhætti eru safnaðarmenn þeirra lútersku klerkanna að halda við; þeir styrkja hann með fjárframlögum, styrkja hann með því, að standa í söfnuði þeirra, styrkja hann með því, að láta þá fræða börnin sín upp í þessari svívirðilegu guðlöstun.



## KAFLAR ÚR BRÉFUM.

(Til ritstj. eða ráðsmanns Dbr.)

[Vér birtum í síðasta blaði nokkra bréfkafla um álit manna víðsvegar um DAGSBRÚN og stefnu hennar. Það er áform vort að halda því áfram í hverju blaði, þegar eitthvað þess konar er fyrir hendi. Kaupendur gerðu oss greiða með því, að senda oss í fáum orðum álit sitt um blaðið, með þeim útásetningum, er þeim þykir við eiga. Vér birtum ekki nöfn bréfritanna.]

*Spanish Fork, 30. Sept.*

......Marga fýsir að sjá og lesa Dagsbrún, og margir hafa látið í ljósi að sér líkaði hún vel, og dreg ég þá ályktun af því, að kaupendur smáfjölgi hér eins og annarstaðar......Frágangurinn á Dagsbrún líkar mér vel......Samanburðurinn á ættartölu Krists, eftir þá Matth. og Lúkas, er hreina afbragð............

*West Selkirk, 10. Okt.*

......Ágætlega líkar mér Dagsbrún, einkum síðan þið fóruð að gefa hana út þar efra.......Skyldi ekki Garða-prestinum volgna undir uggum, ef hann les athugasemdirnar um ruglið hans í Aldamótum?...... Eða þá ættartalan! Það er skýrt og gott dæmi upp á guðlegan innblástur og samkvæmni biblíunnar............

*Gimli, Man., 12. Okt.*

......Ég les ekkert blað með eins mikilli ánægju og Dagsbrún...... Ég skil ekki í öðru, en að hún lyfti orþódoxu-trúardulunni frá augum

hvers manns, sem les hana með athygli, og sem annars er hægt að sannfæra..................

*Samei.ii g'n, September '95.*

......En sú Únítaratrú, sem þar er boðuð, er alt öðruvísi að áferð og útliti en hin guðlastandi viðrstyggð, sem borin er á borð fyrir fólk í Dagsbrún og þesskonar ritverkum............

[Þar kom nú heldur en ekki "hljóð úr horni," piltar! Það er nærri eins og Winnipeg-páfinn hafi einhvern ýmigust á Dagsbrún! Ojæja, honum er vorkun, tötrinu, "sannleikanum verður hver sárreiðastur." Betra fyrir hann samt, að láta Sigtrygg "leppa" skammirnar til vor framvegis, eins og fyrri.]

---

## TIL MINNIS.

Eftirfylgjandi menn hafa góðfúslega lofað, að hafa á hendi útsölu og innköllun fyrir DAGSBRÚN hver í sínu bygðarlagi:

Minneota, Minn.:
Mr. G. A Dalmann,
Hallson N. Dak.:
Mr. Thorl. Thorfinsson.
Mountain, N. Dak.:
Mr. Björn Halldórsson.
Mr. Br. Brynjólfsson.
Pembina, N. Dak.:
Mr. B. F. Jósafatsson.
Spanish Fork, Utah:
Mr. Einar H. Johnson.
Seattle, Wash.:
Mr. Gísli Sæmundsson.

Victoria, B. C.:
Mr. Ásgeir J. Lindal.
Tindastóll, Alta:
Mr. St. G. Stephansson.
Selkirk, Man.;
Mr. Baldvin Helgason.
Westbourne, Man.:
Mr. Ingimundur Ólafsson
Húsavík, Man.:
Mr. Stefán Ó. Eiríksson.
Hnausa P. O., Man.:
Mr. Sigurður J. Vídal.
Hecla P. O., Man.:
Mr. Páll Jakobsson.

Kaupendur vorir geta því greitt andvirðið, annaðhvort til þessara ofangreindu manna, eða sent það, í *Registered Letter* eða *P. O. Money Order*, beint til **M. Pjeturssonar,**
P. O. Box 305, Winnipeg, Man.

---

Margir eiga enn óborgað þetta ár Dagsbrúnar. Oss liggur á skildingum um þessar mundir. Látið því ekki dragast lengur, góðir drengir, að senda oss dollarinn. *Í dag* er betri tími en *á morgun*.

---

Inn á hvert einasta heimili á Dagsbrún að komast. 4 fylgirit ókeypis. Útsölumenn! gleymið ekki þessu. —Næsta blað kemur út innan 10 daga.

---

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri: MAGNÚS J. SKAPTASON.
648 William Ave.
Féhirðir og afgreiðslumaður: MAGNÚS PÉTURSSON.
601 Ross Ave., Winnipeg.

HEIMSKRINGLA PRTG. & PUBL. CO.